# Løg-Þijnges



ANNO 1754.

Jñehalldande þad er Giørdeſt og Framfoor fyrer Løg-Þijnges-Rettenum.



Pryckt a Hoolum i Hialltadal
Anno 1754.

Num I.

ANNO 1754. Þañ 11. Julii vid Oxaraa, ad ſettu Almeñelegu Løg-Þijnge, Voru Epterſkrifader Løgrettu-Meñ Jñ Nefnder ad ſitia Løgþijnges-Retteñ: Ad Suñañ og Auſtañ.

| | |
|---|---|
| Ur Skaptaar Þijnge, | Stephan Biørnsſon. |
| Ur Rangaar Þijnge, | Snorre Bodvarsſon. |
| Ur Arneſs Þijnge, | Sæmundur Giſſursſon. |
| | Paall Axelsſon. |

Ur Kialarness Þijnge, Vilhiaalmur Arnason.
Þorvardur Einarsson.
Ur Þveraar Þijnge, sunnan Hvijtaa, Eyrekur Hafliðason.

Ad Nordan og Vestan.

Ur Þveraar Þijnge, vestan Hvijtaa, Olafur Jonsson.
Ur Þorskafiardar Þijnge, Are Jonsson.
Ur Þorness Þijnge, Skapte Sigurdsson.
Eggert Sveinsson.
Ur Hægraness Þijnge, Eyrekur Eggertsson.
Hiaalmar Erlendsson.

Num. II.

Voru ad Forlage Hr. Amtmannsens, upplesen Epterskrifud Kongl. Majest. Bref

1. Hans Kongel. Majest. Declaration, Hvar med øll Høndlan, mille Hans Majest. Undersaata og Spanien, er Upphafen og Fyrerboden, Dat. 22. Octobr. 1753.

2. Hans Kongel. Majest. Allra-Naadugaste Pardon, wtgiefin Þorgeire Marcussyne, sem uppvijs er ad hafa skrifad falska-Sedla under Nøfnum Kaupmannana i Keblavijk, fraa forþientum Æru og Handar Misser, Dat. 24. Decembr. Anno 1753.

3. Epterskrifad Konglegt Rescript.

# Wii Friderich den Femte

Konge til Danmark og Norge, etc. Vor synderlig Bevaagehed til forn. Som Os Allerunderdanigst er bleven forestillet, En fra Laugmændene paa Vort Land Island, Svend Sølvesen og Biørn Marcussen, med fleere Indkomne Memorial, hvor udi de Allerunderdanigst andrage, at da det Aarlig holdende Laug-Thing ved Øxeraae icke begyndes før end den 8de Julii, og de der ved forefaldende Forretninger, samt deliberationer, over adskillige Vores Tieniste og andre Landets Velferd angaaende Thing, udfordres nu længere Tiid end til forne, geraader det mange af deres Embeds og andre Nødvendige Sager hiemme i Herrederne til Ophold, som ved deres sildige Ankomst fra Laug-Thinget senkes og forhindres, hvor fore de der hos Allerunderdanigst have anholdet, at Wii Aller-Naadigst vilde anordne og befale, at Laug-

Laug-Thinget her efter Aarlig maatte tage sin Begyndelse D. 3ie Julii, som det udi den til den Nye Islandske Lov forfattede Concept er bleven regleret og fastsadt, og i Øvrigt med Althing saaleedes forholdes, som Loven og vedtagen Skick medfører; Thi ville Vii efter den fra dig her over Indhæntede Allerunderdanigste Erklæring, Allernaadigst have bevilget, og her ved anordnet, at Laug-Thinget paa Island maa anticiperes, og i Stæden for at samme, hid til skal have været udsat til den 8de Julii, at skal her efter begyndes og holdes den 3ie samme Maanet. Der efter Du dig Allerunderdanigst kand viide at rette, og Vedkommende sligt til Allerunderdanigst Efterretning at lade bekiendt giøre. Der med skeer Vor Villie, befalendes dig Gud. Skrevet paa Vort Slot CHRISTIANS Borg, udi Vores Kongel. Residentz-Stad Kiøbenhavn, D. 25. Januarii, Añõ 1754.

Under Vor Kongel. Haand og Signet.

# Friderich R.

Conform med Originalen. Test. O. M. Rantzau.

## Num. III.

Þañ 13. Julij, Ad sestinn Logþijnges-Rettenum, Voru upphroopader Maals-Partar wr Suñañ og Austañ Logdæmenu, Og kom fyrer Retteñ Constitueret Sysluman i Mwla-Þijnge Jon Sigurdsson, sem framlagde Eina Logþijnges Rettar-Stefnu, af Dato 12. Julij næstlidna, Med hvorre til Confirmation Jñsiefnest hañs og Med-doomsmaña geingeñ Hierads-Doomur i Þiofs-Søk Halls Thomassonar uppleseñ, Merkt Lit. A. Stefnañ er Delinqventen Løglega birt, sem heñar Uppaskrift sijner. Syslumadur Jon mæter sijn og Dooms-Maña vegna, epter þeirra Fullmagt, ad svara til Doomsens: Eñ Delinqventens Procurator er epter Ordre Hr. Amtmañsens, Logsagnareñ Þorsteirn Biarnason. Þvi næst framlagde Syslumadureñ Process, geingeñ i þessu Þiofnadar-Maale þañ 15. Junij ad Hoolmum i Reidarfirde, i hvers Slwtning Þiofureñ Hallur Thomasson, er fyrer medkiendañ Smaa-Þiofnad i Þridia Siñ, dæmdur ad Kagstrijkiast, Breñemerkiast, og Erfida i Kaupenhafnar Schalverie sijna Lijfs-Tijd, so sem hañ uppleseñ merktur Lit. B. sijner. Delinqventen af Rettenum examineradur, jaatar þad allt satt vera sem Processeñ hønum vidvijkiande iñeheldur. Syslumadur Jon Oskar siñ og Meddooms-Maña Doomur fyrer Logþijnges-Rettenum Stadfestur verde. Delinqventens Procurator uppaastendur, ad Þiofnadureñ sie Delinqventen ei med Vitnum yferbevijsadur, epter Kong Fr. 5ti Allra-Naadugusta Forordningar Tilhallde: Syslumadur Jon seiger Þiofsens Medkieñing fyrer Rette gillda hønum (Delinqventen) fyrer yferbevijsada Søk, þar Vitne hafe ei kuñad faast. Vijdar søgdust ei Maals-Partarner hafa fram ad færa; Er þvi Solaatande Doomur af Hr. Vice-Logmañenum Birne afsagdur i þessu Maale.

Hierads Doomur þess constituerada Syslumañs i Mwla Þijnge Jons Sigurdssonar og 8. Meddooms-Maña, geingeñ ad Hoolmum i Reidarfirde þañ 15.

 Junij

Junij næstlidna, Hvar iñe Hallur Thomasson, fyrer hañs Pridia fyrer Rette medkienda Þiofnad, er dæmdur til ad Kagstrijkiast, Breñemerkiast, og til Kaupenhafnar Æfeñlegs Schlaveries ad wtsendast, Er hier med aldeiles confirmeradur, og byriar þvi Syslumañe Jone ad foja þær Anstalter, ad nefndur Delinqvent Hallur sie a yferstandande Sumre til þess honum tildæmda Fangelses forsvaranlega transporteradur.

## Num. IV.

SAma Dag epter Middag, Kom i Løgrettu Syslumadureñ Sgr. Thorsteirn Magnusson, og producerade Løgþijnges Rettar-Stefnu af 12. Julij næstlidna, Hvar iñe fyrer nærverande Løgþijnges-Rett til Confirmation Jñstefnest hañs og Meddooms-Maña, geingeñ Hierads-Doomur yfer Þiofnum Jone Þorvardssyne, uppleseñ, Not. A. Stefnañ er Delinqventen auglijst, so sem Uppaskrift heñar wtvijsar, hañs Svara-Madur er epter Ordre Hr. Amtmañsens, Syslumadureñ Magnus Ketelsson. Syslumadur Þorsteirn svarar til Doomsens, sijn og Meddooms-Maña vegna, epter þeirra Fullmagt, Var so Hierads-Processen uppleseñ i þessare Søk, geingeñ ad Kyrkiu-Læk 16. Maij næstlidna, J hvørs Slwtningu Delinqventen Jon Þorvardsson er fyrer begeingeñ Sma-Þiofnad i Añad Siñ, Dæmdur ad Kagstrijkiast, Breñemerkiast a Hriggnum, samt Erfida i Kaupenhafnar Schlaverie sijna Lijfs-Tijd, so sem Processen med sier færer, uppleseñ, Merktur Lit. B. Delinqventen nalægur, fyrer Rettenum Examineradur, jatar þad satt vera, sem Processen honum vidvijkiande umtalar, seigest vera Confirmeradur og yfer 20. Ara. Syslumadureñ Þorsteirn remitterar Søkena so varna til Rettarens Adgiørda; Eñ Syslumadureñ Magnus setur i Rett hvort þesse Dreingur skule so hart straffast sem Hierads-Doomureñ tilhelldur, med þvi ad Þiofnadur hañs sie so Liettvægur. Vijdar søgdust þeir ei hafa fram ad færa.

## Num. V.

FRamlagde Syslumadureñ Þorsteirn Magnusson-Løgþijnges Rettar-Stefnu, af 12. hujus, Med hvørre til Stadfestingar Jñstefnest hañs og Meddooms-Maña affagdur Hierads-Doomur i Maale Þiofssens Arna Jonssonar, uppleseñ, Not. A. Delinqventen nalægur vidkañast Stefnuna sier byrta: Hañs Procurator er epter Ordre Syslumadureñ Magnus Ketelsson, Eñ Syslumadureñ Þorsteirn svarar til Doomsens, sijn og Meddooms-Maña vegna, epter þeirra Fullmagt. Framleggur so Process geingeñ i þessare Søk 20. Maij næstlidna a Þiodolfshaga-Þijnge, i hvørs Slwtningu Þiofureñ Arne Jonsson, fyrer medkiendañ Sma-Þiofnad i Pridia Siñe, er dæmdur ad Kagstrijkiast, Breñemarkast i Eñe, og Erfidi i Kaupenhafnar Fangelse sijna Lijfs-Tijd, so sem hañ framar sijner, uppleseñ, Merktur B. Þiofureñ Arne yferheyrdur af Rettenum, vidgeingur øllu þvi uppa hañ er iñfært i fyrgreindum Doome, hañ seigest vered hafa til Guds Bords, og yfer 20. Ara ad Alldre. Syslumadur Magnus seigest eckert Løglegt Forsvar hafa fram ad færa vegna Arna, sem frije hañ fra þvi tildæmda Straffe. Vijdar framkom ei af Partaña Halfu; Hvar fyrer Maaled til Dooms er upptekid.

## Num. VI.

Voru Epterskrifadar Doom-Slwtningar affagdar af Hr. Vice-Løgmañenum, i næst undañgeingnum Þiofa-Maalum.

1.

HJerads Doomur Syslumañsens Þorsteins Magnussonar, og hañs 8. Meddooms Maña, geingeñ a Kyrkiulækiar Þijnge þañ 16 Maij næstlideñ, Hvar iñe Jon Þorvardsson, fyrer medkendañ Þiofnad i Ødru Siñe og Hws-Brot, er dæmdur til ad Kagstrijkiast, Breñemerkiast, og til Kaupenhafnar Schlaveries uppa Lijfs Tijd wtsendast, er fyrer þessum Løgþijnges-Rette aldeiles confirmeradur, og byriar Syslumañenum Þorsteine, ad lata nefndañ Delinqvent Jon Þorvardsson,

son, flitiast med Skipunum i Sumar, wt til hans tildæmda Faangelses.

2. Arne Jonsson, skal fyrer medkiendan Pioofnad i Pridia Sinn, epter Syslumannsens Þorsteins Magnussonar, og hans 8. Meddooms-Manna Hierads-Doome, geingnum ad Pioodolfshaga Þinge þann 20. Maij næstlidna, med Æfenlegu Schlaverie i Kaupenhafnar Castelle straffast, Byriar þvi Syslumanninum Þorsteine, ad sia þennann Delinqvent Arna Jonsson med Skipunum i Sumar, til þess honum tildæmda Faangelses forsvaranlega transporteradann.

Num. VII.

Sama epter Middag, Kom fyrer Løgþijnges-Rettenn Syslumadurenn Magnus Ketelsson, og framlagde Hr. Amtmannsens Ordre til sijn af þessa Dags Dato, ad forsvara fyrer nærverande Løgþijnges-Rette, geingenn Hierads-Doom Saal. Syslumannsens Bødvars Jonssonar og hans Meddooms-Manna, i Eirnre Dulsmaals-Søk fraa Vestmanneyum, sem hijngad er siefnd., Lit. A. Hann framleggur og Løgþijnges Rettar-Stefnu i þessu Maale, med hvørre hijngad fyrer Rett stefnest Delinqventinden Ragnhildur Jonsdootter, asamt hennar Egta-Madur Gudne Andunarson, Endelega stefnest og Syslumadurenn Saal. Bødvar og hans 8. Meddooms-Menn, ad svara til Doomsens, so sem Stefnann wtvijsar, upplesenn, Not. B. Hioonenn Gudne og Ragnhilldur sem stefnd eru, mæta med sijnum Forsvars-Manne Brinjolfe Brinjolfssyne; Var sijdann Process upplesenn i þessu Duls-Maale, geingenn ad Vestmanneyum þann 24. Septembris, 15. Octobris og 2. Novembris næstlidens Ars, J hvørs Slwtningu Ragnhilldur Jonsdotter er dæmd til ad lijda epter N. L. 6. B. 6. Cap. 8. Art. Enn Gudne Andunarson frijkiendur, sem Processenn framar sijner, upplesenn, Not. C. Saka-Konann Ragnhilldur grandvarlega Examinerud af Rettenum, jaatar þvi sama sem fyrer Hierads-Rettenum umm Barns Fædinguna, og þess dauda Foosturs Medhøndlun, seigest hafa þad af Einfelldne sinne nidurgrafed, enn nockru sijdar Openberad þad Manne sijnum, hvørium Ovitanleg vered hafe sijn Medferd a Lijkamanum, hvørin hann og, þar umm yfirheyrdur er samsiemande, Fader ad þessu hennar fædda Andvana Barne seigest hann vera, Eirnenn hafa angliist Prestenum þessa Barns-Fæding og þess Medhøndlan, strax þa hann þad visse. Syslumadur Magnus uppaastendur, ad sa yfer Ragnhillde geingne Hierads-Doomur Stadfestur verde. Þeirra Hioonanna Svara-Madur Brinjulfur þar a moot uppaastendur, Hierads-Doomurenn eige hier fyrer Rette ad modererast, og Konann eige ecke vijdar ad straffast, enn fyrer Leynelega Greftrun a þvi dauda Foostre, Refererar sig vijdar, til sijns Innleggs fyrer Hierads-Rettenn. Gudne Audunarson Oskar hann Endelega verde hier frijkiendur. Vijdar søgdust Maals-Partarner ei hafa framm ad færa.

Num. VIII.

Sama Dag kom fyrer Rettenn Syslumadurenn Þorsteirn Magnusson, og produceerade Eina Løgþijnges Rettar-Stefnu, af Dato 6. Junii Næstlidna, med hvørre fyrer Nærverande Løgþijnges-Rett til Confirmation, Innstefnest Syslumannsens i Arness Þijnge Brinjoolfs Sigurdssonar, og 8. Meddooms-Manna, geingenn Hierads Doomur i Maale Jons Hrobiartssonar, hvør eirnenn er fyrer Løgþijnges-Rettenn stefndur, Doom ad þola, fyrer sitt framed Illvirke, so sem Stefnann sijner, Not. A. Vegna Syslumanns Brinjoolfs og Meddoomenda, mæter Syslumadur Þorsteirn til Doomsens ad svara epter Begiæring, enn Delinqventens Jons Forsvar, er epter Ordre Syslumadurenn Jon Sigurdsson; Delinqventen Jon Hrobiartsson nalægur jaatar Stefnunna sier birta. Þar epter var upplesenn Hierads Processenn, geingenn i þessu Maale ad Hvsatooptum, þann 21. Januarij Næstlidna, J hvørs Slutningu Jon Hrobiartsson, fyrer veitt Bana-Tilræde og Averka Tveimur Mønnum, er dæmdur ad Halshøggvast, þo skule Sødann adur Executionenn framsser, Hans Kongel. Majest. Allraunderdanngast refererud verda, so sem Processenn vijsar, Not. B. Syslumadur Þorsteirn uppaastendur Doomur Syslumannsens Brinjoolfs (hvad Straffenu vidvijkur) stadfestur verde. Delinqventen nalægur, veiter þvi øllu

Vidgaungu, sem uppa hañ er anfært i Hierads Processenum: Hañs Svara-Madur Syslumadur Jon vonar og uppæstendur Doomurenñ modererest, hvad Liifs-Straffenu vidviikur. Syslumadureñ Porsteirn þar a moote, meinar Delinqventen straffast eige, so sem fyrer Einfallt Mañdraap, Epter sem Asetningur til eins groofs Mords, hvad þetta vered hafe, þar Giorningureñ skiede moote þeim Moñum, sem voru i Rettarens Erendum, Varnarlausum, Saklausum, i Mirkre, i Vinsemdar Skyne, eige metast sem Simpel-Draap. Delinqventens Tals-Madur fram̃færer þar a moote eckert Logmætt, helldur Oskar Doomur Syslumañsens Brinjoolfs moderereft, þar þetta Illvirke mune skied i Raserie. Viidar fram̃færdu ei Maals-Partarner i Sookn og Vorn, er Maaled þvi uppteked til Endelegs Dooms.

## Num. IX.

Pañ 15. Julij, Voru uppsagdar 2. epterfylgiande Doom-Slutningar, af Hr. Vice-Logmañenum, i Delinqventa Maalum wr Vestmañeyum og Arnes Syslu.

I.

Pad er ecke ad sia af Procesſe Syslumañsens Saal. Bodvars Jonssonar, geingnum a Vestmañeyum þañ 24. Septembris og 15. Octobris Næstlidna, uppa Medhondlan Ragñhilldar Jonsdoottur vid þad Barn, er hun fædde i fyrra Sumar, og var i Hioonabande aflad, ad hun hafe haft nockurn Vilia til, þad sama i Duls-Maale ad deyda, helldur er þvert a moote bevijsad, med þar um̃ teknu Proofe, ad Ragnhilldur hafe hiaa sier haft 2. Kveñ-Persónur, og þeirra Hialpar bedest, þa hun þetta sitt Fooſtur fædde, Sem og so af Lijkendum og Bevijsingum fram̃komnum, raada er, ad þa hafe daudt vered: Einasta er heñar Yfersioon þesse, ad þa hun hafde Barned af sier fædt, ad hun gaf þad ecke strax til Vitundar, og liet færa þad til Kyrkiugards Greftrunar. Þvi ad þessu Maale grandvarlega yfervegudu, fellur þar i solaatande Logbijnges Doomur.

Syslumañsens Saal. Bodvars Jonssonar, og hañs Atta Meddooms-Maña Hierads-Doomur, geingeñ ad Vestmañeya Þijnge þañ 2. Novembris 1753. Hvar iñe Ragnhilldur Jonsdootter er dæmd ad lijda epter N. L. 6. B. 6. Cap. 8. Art. uppa sitt Lijf, er hier med so sem ofhardur, upphafeñ og annuleradur; Eñ fyrer þa Yfersioon, ad hun liet ecke færa sitt Daudfædda Barn til Kyrkiu-Gards Greftrunar, helldur groof þad nidur i Badstofu Goolfed, hvar þad laa, iñ til hun þad sialf opeñberade Mañe sijnum Gudna Audunarsyne, skal hun betala til Klausturkoola Hospitals 1. Hundrad a Lands-Vijsu ad fyrstu Solum, og stande opeñber Skrifta-Maal. Egtamadur Ragnhilldar Gudne Audunarson, so sem Ovitande i þessare Sok, er af þessum Logbijnges-Rette ad ollu Leite frijkiendur.

2. Pad er audsied af Procesſe Syslumañsens Brinjoolfs Sigurdssonar, geingnum ad Hwsatoptum þañ 21. Januarij 1754. Ad Jon Hrebiartsson hefur i Bræde yferfalled og sært Brinjoolf Jonsson, og Jon Gissursson, þa þeir þañ 28. Decembris 1753 leitudu epter Þijſe hiaa honum, Eñ ecke er þad þar af bevijsad, ad Jon hafe haft i Siñe þaa ad aflijfa, þvi jafnvel þo hañ soleides i sama Siñe segde, þa sijnde hañ þo i Verkenu, nær hañ sier sialfur aptur hiellt þar fraa, ad þad ecke var hañs fullkomeñ Asetningur; Saareñ sem hañ þeim giorde, voru ecke helldur so

Van-

Banvæn, ad til Dauda beinleides horfa kyñu, þar þeir' a skoñum Tijma urdu af þeim aptur restitueradur, hvørs vegna, nær adgiættar eru nøje allar þessarar Sakar Omstændigheder, kañ ecke sa Doomur sem Sysslumadureñ Brinjoolfur Sigurdsson, og hañs 8. Meddooms-Meñ, hañ 21. Januarij næstlidna geinged hafa, yfer Jone Hrobiartssyne, hvar iñe hañ dæmest fra Lijfenu, af þessum Løgþijnges-Rette ad confirmerast, helldur er hañ hier med so sem ofhardur annuleradur. Eñ þar sem Jón Hrobiartsśan tiæest miøg fatækur til ad bæta fyrer þetta sitt Illvirke, a moote saklausum Moñum, Brinjoolfe Jonssyne og Jone Gissurssyne, nær þeir i Rettarens-Erendum til hañs komu, þa skal hañ til Straffs þar fyrer erfida i Jarnum i Kaupenhafnar Castelle i 6. Ar. Hefur so Sysslumadureñ Brinjoolfur ad sia hañ transporteradañ a þessu Sumre, til þess honum tildæmda Faungelsis.

## Num: X.

SAma Dag var producerud fyrer Løgþijnges-Rettenum, Rettar-Stefña fra Sysslumañenum Jone Sigurdssyne, af Dato 10. Novembris 1753. Med hvørre hijngad stefnest Løgsagnareñ i Skaptafells Syslu Þorsteirn Biarnason, ad forsvara siñ fyrer Hierads-Rette afsagda Doom i Reikninga-Maale mille Sysslumañs Jons og Klausturhalldarans Jons Thorlacius. 2. Stefnast, Sysslumadureñ Sigurdur Stephansson, og Løgrettumadureñ Stephan Biørnsson, ad svara til siñar giørdrar Liqvidation i sama Reikninga-Maale, Endelega stefnest Klausturhalldareñ Jon Thorlacius sem Hlutadeigande, ad svara til siña uppsettu Reikninga og Prætentioner, aller under Endelegañ Løgþijnges-Doom, So sem Stefnañ vijsar, Not. A. Epter Stefnuñe mæta Klausturhalldareñ Thorlacius, Løgsagnareñ Þorsteirn og Stephan Biørnsson i Eigeñ Persoonu, eñ Sysslumadur Sigurdur Stephansson, fyrer Inlegg. Þessu næst var framlagdur Proceß i þessu Reikninga-Maale, J hvørs Slutningu Løgsagnareñ Þorsteirn hefur confirmerad Liqvidations Mañaña, Sysslumañs Sigurdar og Løgrettumañs Stephans Forretning, sem i Acten er iñfærd, Doomureñ er afsagdur 3. Augusti næstlidna, uppleseñ, Not. B. Inlegg framkom fra Sysslumañe Sigurde Stephanssyne, Dat. 12. Junij 1754. J hvøriu hañ medkieñer Løgþijnges-Stefnuna sier birta, afsakar sig til Liqvidationen ad svara, med þvi hun hafe yferstaded siñ Fatalia, uppastendur ad Siidustu Kost og Tæring, so sem Inlegged sijner, Not. C. Sysslumadureñ Jon framlagde Inlegg af 11. Julij næstlidna, med hvøriu hañ vill sveckia Forretning Liqvidations Mañaña, uppleſed, Not. D. Añad Inlegg framlagde Sysslumadureñ Jon, i hvøriu hañ atelur Løgsagnarans Þorsteins Adgiørder, Dat. 11. Julij 1754. uppleſed, Not. E. Þvi filger Bilager under sama Num: sem er Þijngdags Begiæring Sysslumañs Jons, til Løgsagnarans Þorsteins a 19. Octobris, sem þad Document upplesed sijner. Eitt Inlegg framlagde Klausturhalldareñ Jon, af Dato 8. Julij næstlidna, under sijnu Nafne, J hvøriu hañ uppastendur Liqvidations Mañaña Forretning i Hierads-eige vid Magt ad blijfa, og Løgsagnarans Þorsteins Doomur Stadfestast, uppastendur eirneñ Kost og Tæring, upplesed, Not. F. Uppa begiært Interlocutorium i Inlegge Sysslumañsens Sigurdar Stephanssonar, fellur Solatande Rettarens Afsigt.

Sysslumadureñ Jon Sigurdsson, hefur ecke Iñstefnt til Hierads-Þijngs þeirre Liqvidations Forretning, sem giord var a Kyrkiubæar Klaustre þañ 2. Octobris 1752. af Sysslumañe Sigurde Stephanssyne og Løgrettumañe Stephane Biørnssyne, fyr eñ til 19. Octobris 1753. meir eñ heilu Are epter Forretningareñar Datum, af hvøriu Þijnge þa þo vard eckert, Þvi kañ su Søk og liqvidations Forretning, er hañ stefnt hefur fyrer þeñañ Løgþijnges-Rett, ecke hier, so sem ofgomul

fyrer,

fyrertakast til Paakiendelse, aa Kongl. Majest. Allra Naaduguſtu Opreisningar. Eñ so vijdt sem aahrærer Jons Sigurdssonar Stefnu Poost og Akiæru uppaa Løgsagnarans Þorsteins Biarnasonar Udeblivelse, fraa þvi hañ 19. Octobris 1753, tilsetta Þijnge, aa hier ad tracterast og uppaakieñast.

Løgsagnareñ Þorsteirn fram̃lagde Eitt Jñlegg af þessa Dags Dato, hvar iñe hañ medal añars forsvarar þad, hañ ecke mætte hañ 19. Octobris, hvorn Dag hañ giefed hafde Syslumañe Jone, ad siesna iñ fyrer siñ halldande Rett, Liqvidations Forretninguñe, so sem Jñlegged sijner Not. G. Syslumadur Jon refererar sig til fram̃lagds Jñleggs fyrer þeña Rett, sub. Lit. E. Hvad þessu er ad lwtande, hañ fram̃bijdur sijn Document i Høfud-Søkeñe, er sijne hañ hafe rangt tilburfared i Hierade; Referera so aller Maals-Partar sig til fram̃lagdra Jñleggia, segiast ei framar hafa fyrer þeña Rett ad fram̃færa, hvar fyrer soleiðandi Doomur er assagdur.

Þad er bevijsad med Løgsagnarans Þorsteins Biarnasonar eigeñ Medkieñing, fyrer þessum Løgþijnges-Rette, ad hañ ecke mætte til þess Þijngs, er hañ sialfur hafde giefed Jone Sigurdssyne Þijng-Dag uppaa, til þess 19. Octobris 1753. ad Kleifa Þijngstad, hvar Jon Sigurdsson þo mætte med sijna Stefnu, og honum af Løgsagnara Þorsteine tilskickudu Stefnu-Vottum: Løgsagnareñ hefur ei helldur fram̃fært hier fyrer Rette nein sijn Forfoll, sem Løgleg aalijtast kuña, ad vera þar til Stadar sama Dag, fyrer hvøria sijna Forsoomun, Løgsagnareñ Þorsteirn skal betala til Syslumañsens Jons Sigurdssonar, i Satisfaction og Um̃kostnad 6. Rixd. Croner, med alvarlegre Erindring, ad hañ hier epter forsvaranlega uppasse sitt Doomara Embætte. Þær tildæmdu Bætur skulu lwktar vera iñañ 6. Vikna fraa Doomsens Dato, under Adfør og Execution.

Num. XI.

SAma Dag epter Middag, fram̃lagde Syslumadureñ Jon Sigurdsson, fyrer Løgþijnges-Retteñ, Ordre Hr. Amtmañsens til sijn, ad gaanga i Rett vegna Løgrettumañsens Stephans Biørnssonar, sem hijngad fyrer Rett hefur Maalum stefnt, So sem þær upplesnar, Not. A. Fraaskijra: Þar næst var uppleseñ Løgþijnges-Stefna, af Dato 19. Aprilis næstlidna, med hvørre epter Løgrettumañs Stephans Begiæring, hijngad stefnest Løgsagnareñ Þorsteirn Biarnason, ad forsvara geingeñ Doom mille Citanten og Klausturhalldarans Jons Thorlacius, i þeirra milleverande Fiøru-Maale; Endelega stefnest Klausturhalldareñ Thorlacius, ad forsvara sijna Action og Procede i Hierade, Med vijdara er Stefnañ iñehelldur, uppleseñ, Not. B. Actor fram̃lagde Procesś, geingeñ i þessu Fiøru-Maale, ad Kyrkiubæar Klaustre 10. og 11. Decembris, J hvørs Slwtningu Løgrettumadureñ Stephan Biørnsson, er tildæmdur ad betala til Klausturhalldarans Thorlacium 4. Rixd. Croner og 40. aln. i Procesś Kostnad, samt til Rettarens 40. aln. so sem Procesśen vijsar, uppleseñ, Not. C. Syslumadur Jon fram̃leggur Jñlegg af Dags Dato, þeim assagda Hierads-Doome til Afrijunar, med þar iñfærdum Rettesættelser, epter sem Jñlegged sijner, upplesed, Not. D. Añad Jñlegg fram̃lagde Syslumadur Jon, med hvøriu hañ aafrijar Klausturhalldara Jons Action i Hierade, so sem þad med sijnum Jñfærdum Rettesættelser sier lijkast hermer, upplesed, Not. E. Løgsagnareñ Þorsteirn fram̃leggur og eitt Jñlegg, hvar med hañ vill siñ Doom styrkia, so sem þad sier lijkast hermer, upplesed, Not. F. Klausturhalldareñ Jon fram̃leggur Jñlegg af Dags Dato, siñe Action i Hierade til Styrkingar, so sem Jñlegged sijner, upplesed, Not. G. Løgsagnareñ Þorsteirn Protesterar, ad svara til þeirra Sakargifta, sem hañ sie ei stefndur til ad forsvara fyrer þessum Rette. Klausturhalldareñ Jon uppaastendur, Actor Syslumadur Jon ansiaaest fyrer groofar Rettesettelser sier aa moote. Vijdar fram̃færdu ei Maals-Partarner i Sookn og Vørn; Er þvi Maaled uppteked til Dooms.

Num. 12.

Num. XII.

**VAr uppleſed Beſtallings-Bref Syſlumañſens Jons Arnaſonar, fyrer Snæfellsneſs Syſlu og Stapa Um̃bode, Allra-Nadugaſt wtgiefed. Chriſtiansborgar-Slote D. 19. Februarij 1754.**

Num. XIII.

SAma epter Middag, mætte eñ aa nij fyrer Løgþijnges-Rettenum Syſlumadureñ Jon Sigurdsſon, og fram̃lagde Eina Løgþijnges Rettar-Stefnu af Dato 4. Decembris 1753. Med hvørre ſtefneſt, epter Logrettumañs Stephans Biørnsſonar Begiæring, Løgſagnareñ Þorſteirn Biarnaſon, ad forſvara aſſagdañ Doom, mille Citanten og Steinuñar Þorſteinsdoottur, ſem Stefnan ſiaalf ſijner, uppleſeñ, Not. Lit. A. Løgſagnare Þorſteirn mæter epter Stefnuñe, og uppaaſtendur Adile Maalſens Steinuñ, ſie ei hijngad ſtefnd, ſie hañ þvi ei ſkylldugur til Stefnuñar ad ſvara. Syſlumadur Jon uppaaſtendur, Løgſagnareñ 4. Vikur og 2. Daga yfer Laga Termin hafe iñehallded Proceſſenum, hvar fyrer hañ anſiaaſt eige. 2. Ad Løgſagnareñ hafe ei giefed Bilagerne med Proceſſen beſkrifadar. 3. Ei ſett neina viſſa Tijd, iñañ hvørrar Løgrettumadureñ hafe aatt Sektum ad ſvara epter Doominum. Proceſs var uppleſeñ ad Forlage Syſlumañs Jons, geingeñ þañ 2. og 3. Auguſti, ad Mørk vid Kleifa Þijngſtad, J hvørn iñfærd er Stefna til Løgrettumañs Stephans fyrer Hierads-Rett, og Endelega Confirmations Dooms-Slwtning Løgſagnarans Þorſteins, yfer Doome Syſlumañſens Biarna Nicolausſonar, hvørn Doom ei er ad ſiña i þeſſum Proceſs, nie helldur Iñlegg fram̃lagt af Løgrettumañe Stephane, til hvørs Acten þo vijſar, ſem hañ ſijner uppleſeñ, Not. B. Eñ ſo ſem þeſſe Proceſs er Ofullkomeñ, og Løgſagnareñ þo hefur Skriflega lofad, þeim ſama fullkomnum, ſem ſiaa er af hier Producerudu Documente under hañs Nafne, ſem filger, ſub Lit. B. Er af Rettenum beidſt hañ Prudocere allar Bilager, er hañs Act filgia eige, ef þar af ſiaaſt kuñe, hvør Maals-Stadureñ ſie, med hvøriar Løgſagnareñ ei iñſañ ſig, Jafnvel þo laanga Stund være epter hønum beded.

Num. XIV.

HAñ 16. Julij, Kom fyrer Løgþijnges-Retteñ Syſlumadureñ Arnor Jonsſon, og fram̃lagde Ordres Vel-Edla Hr. Amtmañſens til ſijn, af Dato 28. Aprilis Næſtlidna, ad gaanga i Rett, vegna Gudmundar Biarnaſonar, fraa Jſafiardar Syſlu contra Syſlumañ Erlend Olafsſon, ſo ſem Orderne vijſa, upplesnar Not. A. Hañ fram̃lagde Løgþijnges Stefnu, af Dato 17. Maij 1754. Med hvørre hijngad fyrer Rett kallaſt Syſlumadureñ Erlendur Olafsſon, ad forſvara ſiñ geingeñ Doom, yfer Gudmunde Biarnaſyne uppaa Æru og Hwdlaat, ſamt giørda Execution þar epter moot Appelle, Dooms-Meñ Syſlumañſens eru under ſama Skilorde hijngad ſtefnder, ad forſvara þeirra Adgiørder, Eirneñ Biarne Sveinbiørnsſon, ſem Sækiande i Hierade, ſo ſem Stefnañ vijdar wtvijſar, uppleſeñ Not. B. Epter Stefnuñe mæter Syſlumadur Erlendur, Eñ vegna Dooms-Mañaña Syſlumadureñ Jon Arnaſon epter Ordre, ſem þær upplesnar ſijna, Not. C. Hierads-Proceſſen var uppleſeñ i þeſſu Maale, geingeñ ad Tungu vid Skutulsfiørd 1. og 2. Junij, yfer Gudmunde Biarnaſyne, J hvørs Slwtningu hañ dæmeſt ad Kagſtrijkiaſt og Breñemerkiaſt, med vijdara, ſem Proceſſen vijſar, Not. D. Kongl. Opreisning under Hr. Stiftbefalingsmands Grev Rantzaus vidiſse af Dato 4. Maij 1753. Ad þeſſe Søk mætte fyrer Løgþijnges-Retteñ til Paakiendelſe Iñſtefnaſt, var uppleſeñ og filger ſub. Lit. E. Syſlumadur Erlendur uppaaſtendur, ad 2. Þijng-Vitne tekeñ af Syſlumañe Scheving i þeſſu Maale, ſem til Upplijſingar ſieu i Søkeñe, ecke Iñſtefnd ſieu, edur Syſlumadur Schieving; Þar hiaa ſie Margret Þorgeirsdootter Aññar Høfud-Vidkomande Sakareñar, ſem nu merkeſt eirneñ feinged hafe Kongl. Opreisning, i heñe (Søkeñe) ad Iñſtefna. 3. Sie Sæklande i Hierade ei hier til Stadar, nie nockur hañs vegna, kuñe þvi allt, ſo leinge Søkeñ fyrer þeſſum Rette, ei tracteraſt og dæmaſt. Syſlumadur Arnor ſtendur uppaa: Syſlumad-

ur Erlendur hafe haft nægan Tijma Þijngs-Vitnanum ad Jnstefna, En han sijns Principals vegna, hafe ei haft Orsøk þar til; Margret sie ecke Høfud-Partur i Søkene, helldur sie hennar Søk Bijsøk; Han seigest fra falla allre Action moote Biarna Sveinbiørnssonar Erfingium, hindre þetta Prent þvi ecke Maalsens Framgang, helldur eige Søken framganga. Sysslumadurenn Erlendur begiærer Dilation a þessarar Sakar Framgange, þar til han kunne wtvega sier Kongl. Bevilling, ad baadar Sakernar Gudmundar og Margretar, under eins meige fyrerkoma; Actor uppastendur, þesse Astæda fyrer gyllda ei anteken verde, helldur meige Maaled hafa sinn Løglegan Framgang. Uppa Begiæring Partanna fellur solaatande Interlocutorium.

Pær Astædur sem Sysslumadurenn Erlendur Olafsson giort hefur umm Uppsetningu þessarar Sakar, finnast ecke so gilldar, ad uppa þær kunne reflecterast: Þvi hvad Margretu Þorgeirsdoottur ahrærer, þa hefur hun sitt Tiltal a Parte uppa Hierads Doomenn, allt so skal nu þesse Søk aan vijdara Uppehallds, fyrertakast og wt agerast.

Jnlegg af þessa Dags Dato framleggur Actor under sijnu Nafne, i hvøriu han atelur Sysslumannsens Erlends Adgiørder, med innfærdum Rettesættelser, so sem Jnlegged sijner, uppleſed Not. F. Sysslumadur Erlendur framleggur Original Contract, i hvørre Gudmundur nidurslær øllum Prætentioner til Sysslumanns Erlends, til hennar Datum, sem er 17. Julij 1752. so sem hun uppleſenn Not. G. sijner. Epter henne uppastendur Sysslumadur Erlendur, ad Gudmundur aungva Makt hafe moote sier Akiæru reisa, fyrer þa Søk sem innfallen sie, fyrer adursagt Termin, hennar sie og ei i hinu minnsta gieted i Opreisninguñe. Actor repliquerar þar uppa, ad sw Kongl. Opreisning tilhallde, þad Søken fyrertakest, Gudmundur ei helldur hefde kunnad forlijkast uppa annad enn Peninga-Mulct, þvi Executioner a hans Hwd og Æru, hafe vered Rettarens Adgiørder, sem han hefde ei kunnad forlijkast uppa, hvøriar hier fyrer Rette eige metast: Uppastendur þvi Maaled aungva Hindrun lijde, fyrer þetta Sysslumannsens Rettesættelse. Sysslumadur Erlendur Oskar hier uppa Rettarens Decision, sem fiell soleides.

Jafnvel þo Gudmundur Biarnason i þvi Forskrivelse, sem han giort hefur til Sysslumannsens Erlends Olafssonar, hafe lofad aldeiles ad nidurfella allar þær prætentioner, sem han hefur nefndum Sysslumanne i moote, wt af þeirre Søk hier nu Jnnstefndre; Þa vill sw Konglega Allra-Naadugasta Opreisning, ad hun uppa Iusticens vegna, skule uppa talast ad þvi O-oktudu, sem Gudmundur hefur af sijnum Akiærum afstaded, og allt so byriar þeim Constituerada Actori ad fara fort med Sakarennar Drift til Endelegs Dooms.

Jnlegg framlagde Actor af þessa Dags Dato, J hvøriu han akiærer giørda Execution Sysslumannsens Erlends yfer Gudmunde, so sem Jnlegged sijner, uppleſed, Not. H. Vitnaleidslu-Act i Hierade giørdur af Sysslumannenum Schieving þann 21. Februarii og 2. Martij, var uppleſenn, sem Not. Lit. J. Af ødrum Vitnatekta-Act Sysslumanns Schievings, giørdum 21. og 28. Febr. næstlidna, var uppleſed, so vijdt i kriing er dreiged, hann er Not. K. Jnlegg framlagde Sysslumadur Erlendur, hvar inne han framfærer samsteinn Vitnanna i Procesſenum, umm Pinofnad Gudmundar, So sem Jnlegged sijner, Not. L. Jnlegg framlagde Actor af þessa Dags Dato, J hvøriu han uppastendur, Gudmunde tildæmest i sinn Kostnad fyrer þessu Maale 60. Rixd. uppleſed, Not. M. Sysslumadur Erlendur uppastendur, sinn Doomar ei einasta verde Confirmeradur, helldur framar skerptur. Sysslumadur Arnor uppastendur, Dooms-Menn Sysslumanns Erlends i Hierade, asamt Doomaranum ansvarest til Sekta: Vijdar framfærdu ei Partarner i Sookn nie Vørn.

## Num. XV.

Sama Dag epter Middag, Var Solaatande Doomur afsagdur i Fiøru-Maalenu ur Skaptaar Þijnge. Klaustur-

Klausturhalldareñ Jon Thorlacius, hefur Jñstefnt þessare Fioru Prætu millum Kyrkiubæar Klausturs og Hørgslands Hospitals, fyrer Riett Løgsagnarans Þorsteins Biarnasonar æ næstlideñ 10. Decembris, þa hañ ædur hafde sialfur teked Meñ til ad mæla Fioruna fra Dalbæar-Fioru vestra v ssu Marke, med hvoria Forretning Løgrettumadureñ Stephan Biornsson, so sem Hospitals-Halldare, er aldeiles Oforneægdur, þar hañ upprætendur, Hospitalinu tilheyre sama Fiara, epter margra Ara Hefd og Brwke, hvar til hañ æ næstlidnu Vore, hefur viliad med Piinge og Stefnu bevijsingar færa, Jasnvel þo sw Stefna sie eñ þa ecke fyrer Rett komeñ, Þar Løgsagnareñ Þorsteirn Pijng-Dageñ uppsett hefur til þess 2. Augusti. J þessare Sok hefur Løgsagnareñ Þorsteirn dæmt i Løgretti mañsens Fiærveru og O-heyrdum hañs Astædum, O-endelega þessa Fioru under Kyrkiubæar Klaustur, Hvar fyrer dæmest og ælyktast. Doomur Løgsagnarans Þorsteins Biarnasonar, geingeñ ad Kyrkiubæar Klaustre, þañ 11. Decembris 1753. Er so sem O-endelegur og O-epterrettañlegur hier med aldeiles upphafeñ. Eñ so sem Sokeñ er af þeirre Betydenhed, ad hun þarf laungtum nøjere Ransaks med, eñ af Løgsagnaranum Þorsteine giort er, Sierdeiles uppa Hospitalsens Sijdu, þa vijsast heñe heim eptur til betra Ransaks, og Løglegrar Granskningar æ Prætu-Plaatzenu, sem skie æ uppa Løgsagnarans Þorsteins eigeñ Bekostning, þa Sokeñ skal sijdañ i Hierade Endelega uppaukeñast og dæmast. Løgsagnareñ Þorsteirn Biarnason, fyrer siñ O endelega og O-epterrettañlega Doom i Sokeñe, skal betala til Hørgslands Hospitals 10. Rixd. Croner, og pro meliore Informatione 2. Rixd. til þessa Rettar. J Procefs Umkostnad til þessa Løgþijnges, b talar hañ til Actorem 1. hundr æ Landsvijsu. Skal allt þetta lukt vera iñañ 6. Vikna, fra Dato, under Adfør og Execution ad Løgum.

Num. XVI.

Þar epter kem fyrer Retteñ Løgsagnareñ Thorsteirn Biarnason, og framlagde 3. Jñlegg af þessa Dags Dato, i hvørium hañ protesterar til Maalsens ad svara, þar Vidkomendur Steinuñ Þorsteinsdootter og Johañ Jonsson sien ei hijugad stefnd, Eirneñ afsakar hañ ofsteina Procefs Extradering, med vijdara, þau uppleseñ Not. C. D. E. Eitt Document under Nafne Steinuñar Þorsteinsdoottur, Dat. 11. Maij 1754. framlagde Actor, i hvøriu hun æfrijar Doom Løgsagnarans, Oskar Rettar sijns, og seigest mæta fyrer þetta Jñlegg so sem Løgstefnd, er þad uppleséd Not. F. vijsar. Actor protesterar ad Sokeñ uppehalldest fyrer þær framfærdu Astædur Løgsagnarans, helldur falle þar i endelegur Doomur. Uppa Tvistighed Partaña, vidvijkiande þeim fiarlægu Maals-Pørtum, fiell solæitande Rettarens Kendelse.

So sem Stefnu-Saker Løgrettumañsens Stephans Biornssonar, til Løgsagnarans Þorsteins Biarnasonar eckert snerta Steinuñe Þorsteinsdoottur, helldur eru þær stijladar uppa Løgsagnarans eigeñ Adglørder, og Rettar procedeur, i Procefse þeim sem hijnged er instefndur, og hañ hallded hefur næstlideñ 2. og 3. Augusti, og þess sama Extradering; So byriar Løgsagnaranum Þorsteine nu strax æn allra Udflugta, hier til nefndra Løgrettumañsens Stephans, i Løgþijnges Stefnuna iñførdra Sakargipta ad svara, og þar uppa Doom lijda.

Løgsagnareñ Þorsteirn afsakar sig til Adgierda sijns Fø[illegible]urs ad svara, nie hañs Protocol ad

 fram-

